Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

STÉTTABARÁTTAN
VIKUBLAÐ
MÁLSSVARI
VERKAFÓLKS!

Ársáskrift ............ 3000kr.
Hálfsársáskrift........ 1800kr.
Ársfjórðungsáskrift.... 1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár).......... 5000kr.

18. tölublað — Þriðjudaginn 17. maí — 6. árgangur — Verð kr. 60.

# Viðvaningsháttur og meðvituð svik

Það er reginmunur á þeim forsendum sem ASÍ - forystan gaf sér þegar hún setti fram 100. þúsund kr. kröfuna og þeim forsendum sem "vinstri "hóparnir sem í þessu máli styðja verkalýðssaðalin gefa sér. Eftir að krafan um lífvænleg laun fyrir 40. stunda vinnuviku hafði verið samþykkt á láglaunaráðstefnum og á fundum ýmissa verkalýðsfélaga hélt ASÍ -forystan 33. þing sitt þar sem leiðtogarnir uppkeyptu urðu að finna sér leið til að svíkja sameinaða baráttu verkalýðsstéttar. Og þeir völdu sér fallega tölu, hvorki meira né minna en 100. 000, burtséð frá því hve mikið verkafólki ber, hvers það krefst og þarfnast. Þannig hefur þeim tekist að þóknast auðherrunum og stórskerða framsækna baráttu verkafólksins.

**Forsendur ASÍ-forystunnar**

Það fólk sem situr í flestum forsætum verkalýðshreyfingarinnar á lítilla sem engra hagsmuna að gæta með því vinnandi fólki sem því ber að hafa forystu fyrir kjarabaráttunni gegn borgarastéttinni. Auk þess að vera vel launað af verkalýðsfélögunum hefur þetta forystulið ýmsa bittlingatitla s. s. þingmannastöður auk þess að sitja í fjölda nefnda, og slíkt gefur drjúgan skilding í aðra hönd. Það gefur því auga leið að þetta fólk er ekki viljugt til að eiga þátt í straumhvörfum í þjóðfélaginu sem yrðu verkalýðnum stoð í frelsisbaráttu sinni, því alræði öreiganna myndi óhjákvæmilega skerða efnahag þess auk þess sem því yrði gert að taka þátt í atvinnulífi þjóðarinnar ásamt öðrum. Þessar eru helstu ástæðurnar fyrir því að ASÍ- forystan berst gegn virkni almenns verkafólks hvað varðar þjóðfélagsmál. Hún setti fram 100. 000 kr. sem hemil á virka baráttu fjöldans á stéttagrundvelli fyrir kröfunni um lífvænleg laun fyrir dagvinnu.

**Viðvaningsháttur "vinstri hópanna".**

Tvö samtök hér á landi sem telja sig fara eftir kenningum Marx og Lenins styðja 100. 000 kr. kröfuna og þar með ASÍ-forystuna í því að afvegaleiða verkalýðinn. Fylkingin sem

Framhald á bls. 2



Baráttueinig 1. maí lagði áherslu á baráttuna fyrir lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku.

# Niður með alla heimsvaldastefnu




STRAUMSVÍKURGANGAN 1977
• MÆTUM ÖLL 21. MAÍ •
LÁTIÐ SKRÁ YKKUR Í SÍMA 17966

Hinn 21. maí næstkomandi munu Samtök herstöðvaandstæðinga efna til fjöldagöngu og fundarhalda í Reykjavík og nágrenni til þess að leggja áherslu á kröfu sína um brottför hersins og úrsögn Íslands úr Nato.

Aðgerðir Samtaka herstöðvaandstæðinga eru orðnar árviss viðburður, Keflavíkurganga í fyrra, Straumsvíkurganga í ár. Þessar fjöldaaðgerðir efla baráttuna og grípa jafnframt inn í mikilvægustu baráttumál alþýðunnar á hverjum tíma. Þess vegna var lögð mikil áhersla á baráttuna gegn breskum Natoflota í íslenskri landhelgi á síðasta ári.

Í stefnuskrá samtakanna segir meðal annars: "Erlend herseta í landi okkar og aðild að hernaðarbandalagi felur í sér skerðingu á sjálfstæði þjóðarinnar og sjálfsákvörðunarrétti íslenskrar alþýðu. ... Jafnframt því að skírskota til sjálfstæðis og þjóðernisvitundar landsmanna leggja Samtök herstöðvaandstæðinga áherslu á alþjóðlegt samhengi herstöðvamálsins. ... Samtök herstöðvaandstæðinga líta á störf sín og stefnu sem þátt í víðtækri baráttu gegn heimsvaldasinnuðum hernaðarbandalögum, drottnunarstefnu og sífauknum vígbúnaði hervelda."

Hersetan og NATO hafa búið svo í haginn fyrir fjölþjóðlegt auðmagn, að það mætti láta greipar sópa um íslenskar auðlindir. Óþarft er að geta þess hver styrkur vaxandi ítök fjölþjóðahringa yrði hernum og Nato.

Það ætti að vera verðugt umhugsunarefni því fólki, sem nú stendur í kjaradeilum, að bandaríska hernum er ætlað að grípa inn í hugsanleg átök milli atvinnurekendavaldsins og verkafólks. Þetta kemur skýrt fram í nýbirtum leyniskýrslum bandaríska utanríkisráðuneytisins. -Hersetan og aðildin að Nato styrkja þannig leynt og ljóst íslenskt auðvald í viðleitni þess til að tryggja hagsmuni sína gagnvart vinnandi fólki í landinu.

Mikið undirbúningsstarf er nú unnið á vegum samtakanna til að gera þessa fjöldaaðgerð sem veglegasta.

Við heitum á alla herstöðvaandstæðinga að leggja sitt af mörkum með sjálfboðastarfi, fjárframlögum og síðast en ekki síst að mæta í gönguna þann 21. maí

Skráning sjálfboðaliða og þátttakenda í göngunni fer fram á skrifstofu samtakanna að Tryggvagötu 10 Reykjavík og í síma 17966.

Samtök herstöðvaandstæðinga.

# Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku

Yfirvinnubannið sem staðið hefur síðan 1. maí hefur kennt okkur hvað það er að lifa af dagvinnutekjunum. Dagvinnutekjurnar eru orðnar svo lágar að þær nægja ekki til lífsviðurværis Þess vegna verður verkalýðshreyfingin að taka upp baráttu fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku. Sú krafa er sú eina sem getur sameinað verkalýðsstéttina í hagsmunabaráttunni. Kröfu ASÍ verkalýðsaðalsins um 100. þús kr. lágmarkslaun er ekki stefnt gegn vinnuþrældómnum heldur eigum við að halda áfram að lifa af eftir og næturvinnunni og hjakka þannig í sama gamla farinu. Borgarastéttin og taglhnýtingar hennar innan verkalýðshreyfingarinnar hafa í áraraðir sagt okkur að atvinnuvegirnir þyldu ekki meiri kauphækkanir til verkafólks. En sannleikurinn er annar. Þjóðartekjur á Íslandi eru hærri en á hinum Norðurlöndunum en þar lifa stéttabræður okkar af 8 tíma vinnudegi meðan við vinnum 12 stundir eða meira á dag. Norskir og færeyskir sjómenn fá helmingi hærra kaup en þeir íslensku samt er sama verð á norskum og íslenskum fiskblokkum á bandaríkjamarkaði. Arðránið á íslensku verkafólki er þannig miklu meira heldur en þekkist í Noregi og Færeyjum svo dæmi séu tekin. Verkalýður þessara landa býr að auki við meiri samneyslu eða almannatryggingar heldur en vinnandi fólk á Íslandi.

Borgarastéttin sem stjórnar og á atvinnutækin sem við vinnum við hirðir gróðann og lifir í vellystingum af okkar striti. Það er hennar hagur að kaupið sé sem lægst og vinnudagurinn sem lengstur. Þá eykst gróði hennar af okkar vinnu og hinn langi vinnudagur gerir það að verkum að við höfum minni tíma til að sinna þjóðfélags og menningarmálum Þannig á hinn langi vinnudagur að halda okkur niðri með þrælatökum. Íslenska auðstéttin má ekki til þess vita að verkafólk hætti að strita myrkranna á milli og fari að lifa af dagvinnutekjunum.

Þeir menn innan verkalýðssamtakanna sem standa í vegi fyrir því að barist sé fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnudag, eru málssvarar borgarastéttarinnar innan okkar raða. Í verkamannafélaginu Dagsbrún hafa Alþýðubandalagsforkólfarnir sem eru við stjórn snúist heiftarlega gegn kröfunni um 150. þúsund kr. mánaðarlaun sem borin var fram í félaginu. Þeir neituðu að bera tillöguna upp til atkvæða þegar sýnt var að hún hefði meirihluta fylgi verkamanna. Svona verkalýðsforingjar munu aldrei

Framhald á bls. 3



# Stéttasamvinna

Atvinnurekendur hafa lagt fram boð sitt um kauphækkun og kjarabætur og segja þeir það jafnframt það hæsta sem "þjóðarhagur" getur borið.

Við skulum fyrst líta á tilboðið sem atvinnurekendur hafa ætlað sér að láta verkafólk lifa af.

1. Útborguð heildarlaun fyrir fulla dagvinnu miðað við 1. mars sl. (núverandi laun) hækki um 8.5oo kr. frá undirskriftadegi, um 2.500 frá 1. des. og um 2.5oo kr. frá 1. mars 1978 eða alls um 13.500 kr.
2. Til afgreiðslu á sérkröfum komi jafngildi 1% kauptaxtahækkunar.
3. Vísitölubætur greiðist í sömu prósentu, ekki krónutölu, á öll laun og greiðist 1. sept. næstkomandi, en engar vísitölubætur komi 1. júní næstkomandi en þá ætti kaup samkvæmt framfærsluvísitölu að hækka um 6,7%.
4. Samningar gildi í tvö ár til 1. mars 1979.

Þetta er það sem atvinnurekendur bjóða verkafólki upp á plus einhverjar smánar skattalækkanir af hálfu ríkisvaldsins.

Framhald á bls. [illegible]

## LEIÐARI

Geir Hallgrímsson forsætisráðherra sagði nýlega í sjónvarpsviðtali, að Landsfundi Sjálfstæðisflokksins loknum, að ekki væri raunhæft að bera saman tekjur íslensks verkafólks og dansks af dagvinnunni einni saman, vegna þess hve fjárfestingin væri mikil á Íslandi. Hér notar forsætisráðherrann orsökina fyrir lélegum lífskjörum íslenskrar verkalýðsstéttar sem röksemd fyrir því, að kjör hennar séu í raun og veru sambærileg við kjör í Danmörku. Því hin raunverulega orsök fyrir lélegum lífskjörum íslensks verkafólks er einmitt hin mikla eftir- og næturvinna sem er landlæg hér, en þekkist vart ytra. Skiljanlega eru þessi grunnhyggnislegu orð forsætisráðherrans sögð í því skyni, að verja íslenska kapitalismann og það ófremdarástand, sem auðvaldið hefur leitt yfir þjóðina í efnahagsmálum. Íslenskt verkafólk þarf að vinna þriðjungi lengur til að ná svipuðum lífskjörum og stéttarbræðurnir í Danmörku. Þessari staðreynd fær ekkert lýðskrum breytt, og það þýðir ekki að bregða fyrir sig hagfræðimáli í þeirri von, að almenningur skilji ekki hvað um er að vera og álíti að þetta eigi að vera svona. Forsætisráðherranum skjátlast illilega, ef hann heldur að nokkur maður leggi trúnað á það, að uppvöxtur og efling atvinnulífsins þurfi nauðsynlega að kosta alþýðu manna slíkar kjaraskerðingar og orðið hafa á undanförnum árum. Geir Hallgrímsson vill bera saman tekjur og lífskjör dana og íslendinga, án þess að taka tillit til lengdar vinnudagsins. En hvað er raunhæfur samanburður? Að bera saman 8 stunda vinnudag í Danmörku við 12 stunda vinnudag á Íslandi, eða að bera saman 8 stunda vinnudag í báðum löndunum og laun fyrir hann? Skiljanlega er hið síðarnefnda það rétta. Það sér hver maður og tilraun forsætisráðherrans til að klóra yfir arðránið og kjaraskerðingarnar verður því aumlegri, sem maður veltir henni betur fyrir sér. En Geir er líka orðinn svo vanur því, að vera ekki kallaður til ábyrgðar fyrir orð sín, að hann leyfir sér að segja næstum hvað sem er, án þess að þurfa að óttast að vera rengdur. En hvaða áhrif hefur lengd vinnudagsins á gróða atvinnurekenda? Til þess að auka arðránið eru aðeins til tvær leiðir, hin fyrri að lengja vinnudaginn og hin síðari að auka framleiðni eða afköst innan marka sama vinnudags. Hvort tveggja er í notkun hérlendis vinnudagurinn er lengri en víðast gerist og auk þess hefur véltæknin stóraukið framleiðni verkafólks á síðustu árum. Árangurinn er skiljanlega sá, að atvinnurekendur hafa stóraukið gróða sinn á undanförnum árum. Þetta eru hinar raunverulegu orsakir fyrir þeirri þversögn, sem opinberar skýrslur sýna ljóslega. Þjóðartekjur hafa aukist, en afkoma verkafólks er miklu verri. Án þess að nota hagfræðimál, má einfaldlega segja að hinn aukni afrakstur af þjóðarframleiðslunni hafi runnið í vasa atvinnurekendanna. Hinir ríku verða ríkari, hinir fátæku verða fátækari. Þetta er raunverulega það sem er að gerast í efnahagsmálunum og það þýðir ekkert að reyna að fela það með lýðskrumi, hvorki fyrir Geir né nokkurn annan.

En hvernig má það vera, að verkalýðsstéttin, fjölmennasta stétt þjóðfélagsins, láti slíkt viðgangast?

Hvers vegna rís hún ekki upp til baráttu gegn arðráninu, stjórnleysinu, braskinu og klíkuskapnum? Fyrir þessu er aðeins ein hugsanleg ástæða. Verkalýðshreyfingin heildarsamtök verkalýðsstéttarinnar eru máttlítil og sundruð, forysta þeirra er ekkert annað en hópur mútuþægra og lítilsigldra svikara, sem hugsa einvörðungu um eigin hagsmuni og láta sig hagsmuni stéttarinnar litlu varða. Þetta eru verkfæri auðvaldsins, menn sem löngu eru hættir að lifa á sömu lífskjörum og fjöldinn og farnir að hugsa, lifa og haga sér eins og auðherrarnir. Verkalýðsstéttin mun hvorki eflast að samstöðu né baráttu, meðan hún hefur slíka forystu, sem er andsnúin baráttunni og á mútugarðanum hjá atvinnurekendum og ríki. Verkalýðsstéttin verður að losa sig við núverandi forystu verkalýðshreyfingarinnar og gera heildarsamtök sín að raunverulegu baráttutæki gegn kjaraskerðingum auðvaldsins og sóknar fyrir nýju þjóðskipulagi, þar sem vinnan situr í hásæti en er ekki einvörðungu tilefni til gróða.

**HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS ML?**

Miðstjórn: Pósthólf 1357. Reykjavík, einnig í síma 27810

Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Stjörnunnar Lindargötu 15.

Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.

Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.

Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7

Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjavíkurvegi 24.

Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c Keflavík.

# Viðtal við Daoud Kaloti

# Óvinurinn skal aldrei fá að sofa

Í lok aprílmánaðar heimsótti Daoud Kaloti, sendifulltrúi Frelsissamtaka Palestínu (PLO) á Norðurlöndum, Ísland. Palestínunefndin á Íslandi gekkst fyrir fundi í Félagsheimili stúdenta þar sem Kaloti talaði og skýrði út stefnu og starfshætti PLO. Einnig ræddi hann um ástandið fyrir botni Miðjarðarhafs og afleiðingar borgarastyrjaldarinnar í Líbanon. STÉTTABARÁTTAN hitti Kaloti að máli og tók við hann eftirfarandi viðtal, skömmu áður en hann yfirgaf landið.

S: Í mars var haldið 13. þing Palestínska þjóðaráðsins í Kaíró Hverjar eru helstu niðurstöður þingsins?



Daoud Kaloti

K: Það sem kannske er mikilvægast við 13. Þjóðaráðsþingið, er að vangaveltur vestrænnar pressu fyrir þingið, hafa reynst algerlega rangar. PLO er ekki sundrað og hugmyndir um viðurkenningu Ísraels komu alls ekki til greina. Miklar hættur hafa steðjað að palestínsku byltingunni á því tímabili, sem liðið er frá 12. þinginu. Við höfum orðið fyrir öflugum þrýstingi og tilraunum til að brjóta starf okkar niður, en nýja stefnuskráin, sem 13. þjóðaráðsþingið samþykkti með 196 atkvæðum gegn 13, sýnir ljóslega að palestínska byltingin er fyllilega vaxin því verkefni sem hún stendur frammi fyrir. Þingið syndi einnig ljóslega þá einingu sem ríkir með palestínskri alþýðu. Það er mikill styrkur, að meirihlutinn skuli fylkja sér um starf, stefnu og núverandi forystu PLO. Engin baráttufylking stendur utan Þjóðarráðsins og þau 13 atkvæði, sem greidd voru gegn nýju stefnuskránni, eru aðeins merki um lýðræðið sem ríkir innan þjóðþingsins og Þjóðarráðsins.

Fjölmargar samþykktir voru gerðar á þinginu, bæði um skipulagsmál og annað. Þjóðfélagsbaráttan hefur eflst gífurlega og við gleðjumst sérstaklega yfir hinu vaxandi samstarfi við lýðræðissinna og and-síonista innan Ísrael. Þinginu lauk með einingu, sem við álítum að hafi sýnt umheiminum að PLO er eini lögmæti fulltrúinn fyrir palestínska alþýðu.

S: Vestræn blöð gerðu mikið úr sundrungu PLO og hugmyndinni um smáríki á vesturbökkum Jórdan.

K: Já, þetta er ekkert nýtt. Vestrænir blaðamenn hafa ætíð reynt að rangfæra það sem PLO hyggst gera eða hefur gert. Nú töluðu þeir aðallega um að PLO ætlaði að viðurkenna Ísrael, en þingskjölin sem ég minntist á áðan sýna að svo er alls ekki. Þetta eru bara loftbólur í blöðunum og þingskjölin munu sýna fram á lygar vestrænna blaðamanna þegar þau birtast umheiminum. En fyrir borgaralegu blöðin gildir það einu. Þau munu samt reyna að ljúga til um starf og stefnu PLO. Tökum sem dæmi skrifin um vopnuðu baráttuna. Við æskjum ekki eftir vopnaðri baráttu, en það er algjörlega nauðsynlegt fyrir okkur að verjast árásum andstæðinganna. Vopnin geta talað, þegar ástandið krefst þess, þau geta líka þagað. Varðandi ríkið á vesturbakka Jórdan, samþykkti 12. þing Þjóðarráðsins að berjast fyrir stofnun palestínsks ríkis á sérhverjum þumlungi palestínsks lands. Ef óvinurinn hopar undan, munum við vissulega stofna ríki á því landssvæði En þetta er ekki endanleg lausn á vandamálinu, heldur aðeins skref í átt til friðar - eða til styrjaldar, það fer eftir afstöðu bandarísku heimsvaldasinnanna og síonistanna.

2/3 allra þjóða styðja okkur og hjá Sameinuðu Þjóðunum höfum við 20 manna sendinefnd. Við höfum lagt fram lausn á vandanum. Við höfum lagt til að Ísrael skili aftur hernumdu landsvæðunum frá stríðinu 1967 og palestínskri alþýðu verði gert kleyft að flytjast aftur til þessara svæða. En hvað hefur gerst? Ameríkanarnir hafa notað neitunarvald sitt til að hindra að þessi lausn yrði samþykkt og það í blóra við samþykki meirihluta aðildarríkja Sameinuðu Þjóðanna. Þótt blöðin tali um breytta afstöðu, höfum við ekki breytt afstöðunni. Við álítum að til sé aðeins ein lausn á vandanum: Að stofna frjálst palestínskt lýðræðisríki þar sem gyðingar og arabar geta lifað hlið við hlið. Þeir sem styðja PLO ekki, hljóta að hafa hagsmuni af því að berjast gegn okkur. PLO getur leyst gyðingavandamálið með lýðræðislegustu, mannúðlegustu og þar af leiðandi bestu lausninni.

S: Hafði borgarastyrjöldin í Líbanon og afskipti sýrlendinga af henni ekki alvarlegar afleiðingar fyrir baráttu PLO?

K: Óvinir palestínsku byltingarinnar ráðast að okkur á tvennan hátt. Annars vegar beita þeir vopnunum, til að brjóta okkur á bak aftur og eyða okkur. Hins vegar reyna þeir að sá sundrungu meðal arabaríkjanna. Bandarísku heimsvaldasinnunum hefur orðið dálítið ágengt, en okkur tókst þó að stöðva stríðið og koma á vopnahléi á milli okkar og sýrlendinga. Til að jafna ágreininginn reynum við að opinbera deilumálin og koma á betra samkomulagi við Sýrland og við vonumst eftir því að umræðurnar muni leiða til samkomulags. Þetta eru afglöp Sýrlendinga og við viljum leiðrétta þau með umræðum. Þannig getum við splundrað áætlunum Kissingers. Við erum fyllilega undirbúnir undir næstu brögð ameríkananna.

S: Hvernig er ástandið í Ísrael hefur starf ykkar gengið vel á hernámssvæðunum?

K: Vígorð andspyrnuhreyfingarmanna í Ísrael sýna ljóslega hver vilji fólksins er. Fjöldinn segir: "Burt með hernámið. Hussein NEI - PLO JÁ." Hann hefur tekið afstöðu sjálfur og andstaðan gegn síonismanum er alltaf að eflast. Óvinurinn skal aldrei fá að sofa og hann á eftir að lenda í miklu meiri vandræðum fljótlega. Ekki með palestínuarabana eina, heldur líka með gyðinga sem fæddir eru í miðausturlöndum. Við störfum í þágu fjöldans, þess

framhald á síðu 3.

# Viðvaningsháttur og meðvituð svik

Framhald af forsíðu

gerir margítrekaðar tilraunir til að þrýsta á ASÍ-forystuna og gekk meira að segja svo langt að fara með þeim í eina sæng á 1. maí, telur að krafan um lífvænleg laun fyrir dagvinnu sé langtíma markmið sem Kommúnistaflokkurinn sé að "troða uppá" verkalýðinn en þeir viti að besta leiðin í kjarabaráttunni sé að neyða ASÍ-forystuna til að standa við 100.000.kr.kröfuna.

EIK m-l telja Kommúnistaflokkinn verkalýðsfjandssamlegan vegna kröfunnar um lífvænleg laun fyrir dagvinnu en þeir viti að ASÍ-forystan muni svíkja kröfu sína og þá ætla þeir að afhjúpa hana og að öllum líkindum að taka við forystunni og leiða baráttuna til sigurs, því 100.000 kr. krafan sé framfarasinnuð og sameini verkalýðinn þessar vikurnar.

Hvað segir Lenín?

Lenín ætlar að samband sé milli viðvaningsháttar sem vaxtarverkja, er þjá verkalýðshreyfinguna og ökonismans, sem er skoðanaafbrigði sem tekur ekki upp pólitík í verkalýðs málum, og hefur það almenna séreinkenni, hræðsluna við að tjá sig opinberlega. Viðvaningsháttur er meira en skortur á þjálfun, hann merkir þröngt sjónarmið í byltingarstarfi almennt, skilningsleysi á því að góð samtök byltingarmanna verða ekki reist á grunni þröngrar starfssemi og það sem er kjarni málsins, tilrauna til að réttlæta þröngsýni og hefja hana upp í að vera sérstaka kenningu. Slíkar þröngsýni tilraunir beinast í tvær áttir, sögðu sumir að byltingarmenn træðu víðtækum og herskáum sjónarmiðum upp á verkalýðinn í stað þess að halda uppi baráttu fyrir nærtækustu kröfunum og þeim aðgengilegustu. Aðrir sem voru fjarri öllum kenningum um umbreytingu "stig af stigi" sögðu að koma ætti byltingu í framkvæmd í því skyni að skóla verkalýðinn upp í harðri baráttu og ekki þyrfti að mynda öflug samtök byltingarmanna, en það er einmitt stofnun byltingarflokksins sem Lenín telur vera fremsta og brýnasta verkefnið. (Hvað ber að gera bls. 32-33. Greinarhöf. dró saman af bls., það sem við átti um málflutning og viðvaningshátt "vinstri" hópanna.)

I Framhald af forsíðu

# Stéttasamvinna

En hver er afstaða atvinnurekenda til kröfu verkalýðshreyfingarinnar um 100 þús. kr. lágmarkslaun eða um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku?

Við skulum gefa Jóni H. Bergs formanni Vinnuveitendasambands Íslands, orðið úr sjónvarpsþætti þann 19. apríl sl.

"... Undanfarin ár höfum við Íslendingar skipt meiru heldur en í raun hefur verið til skiptanna með þeim afleiðingum að við höfum búið við geigvænlega verðbólgu og útþynningu gjaldmiðils okkar. Það er auðvitað ljóst að veita verður nokkrar kjarabætur ef samningar eiga að takast, en við ákvörðun kjarabótanna verður að hafa í huga að á síðastliðnu ári hafa atvinnuvegirnir orðið að taka á sig yfir 30% aukningu kostnaðar vegna launahækkana og hvert prósentustrik kostar atvinnuvegina um einn miljarð króna í auknum útgjöldum."

Jón talar um að við íslendingar höfum skipt meiru heldur en í raun var til skiptanna. Hann lætur líta svo út að allir íslendingar eigi við sama vandamálið að stríða, þ.e.a.s. berjast fyrir því að framfleyta sér og fjölskyldu sinni af smánarlaunum og óhóflega löngum vinnudegi. Ætli Jón H. Bergs þurfi að hafa miklar áhyggjur af morgundeginum, eigandi SS (Sláturfélags Suðurlands með meiru) þar sem verkafólkið hefur mjög léleg laun og öll aðstaða er afar slæm. Nei, hann lifir í vellystingum pragtuglega. Hann talar um að "kauphækkanir" hafi kostað atvinnuvegina á síðastliðnu ári svo og svo mikið, en eru vísitölubætur á laun kauphækkanir? Svari hver sem vill.

Við skulum kynna okkur viðhorf fleiri talsmanna atvinnurekenda til kaupkrafna verkafólks. Kristján Ragnarsson framkvæmdastjóri LÍÚ (Landssambands Íslenskra Útvegsmanna) sagði í fyrrnefndum sjónvarpsþætti: "... En um meginkröfuna 100.000 kr. kröfuna sem ekki er náttúrulega 100 þús heldur 110 þús. það er ekki talað um annað en 100 þús, þá vil ég svara fyrir mitt leyti að ég tel það ekki þjóna hagsmunum þess sem við sjávarútveg starfa að samþykkja þessa kröfu, þetta mundi leiða af sér algera óðaverðbólgu líkt og átti sér stað 1974. Þess vegna hafna ég þessari kröfu og skal svara því einlæglega, Guðmundur (hér er átt við Guðmund J. Guðmundsson formann Verkamannasambands Íslands).

Þarna kemur það berlega í ljós að afstaða K.R. er sú að óðaverðbólgan sé kauphækkunum að kenna. Hann segir það blákalt að það fólk sem skapar mest verðmæti hér á landi og rakar saman gífurlegum gróða fyrir útgerðarauðvaldið sé valdandi verðbólgunnar. Kristján sagði margt fróðlegt í þessum þætti og margt af því hefði hann betur látið ósagt, vegna þess að þá opinberaðist fyrir alþjóð hversu heimskur hann er þrátt fyrir alla skrúðmælgina. Hann sagði m.a. orðrétt:".. Vísitala er útgjöld fyrir atvinnureksturinn", En hvað er vísitalan fyrir verkalýðinn, er hún útgjöld? Nei, ófölsuð vísitala er eina leiðin til að reyna að halda kaupmætti launa uppi, og þá er reyndar ekki furða þó K. R. tali um að vísitalan sé útgjöld fyrir atvinnureksturinn.

Það sem er einkennandi fyrir faglegu baráttuna í dag er sú sáttfýsi sem kemur fram milli atvinnurekenda og verkalýðsaðalsins. Í þessum margumtalaða sjónvarpsþætti kepptust allir við að hrósa öllum fyrir ábyrga afstöðu, þrátt fyrir allt og svo frv. og frv. Davíð Sch. Thorsteinsson sagði: "... Ég vil nú leyfa mér að hrósa verkalýðsforystunni mjög fyrir mjög ábyrga afstöðu undanfarin ár, undanfarin erfiðleika ár, það hefur verið mjög ábyrg afstaða sem hún hefur tekið".

Verkalýðsaðallinn og auðvaldið eru sammála um að þetta sé allt saman mikið mál og ekki beri að flana að neinu. En hvað segir þetta okkur um baráttuna í dag? Er það ekki furðulegt að fulltrúar verkalýðsins skuli vera að hrósa fulltrúum auðvaldsins upp í hástert, fulltrúum sem eru gerðir út af örkinni af hálfu burgeisanna til þess að sverta alþýðuna og verkalýðinn til þess að sundra henni og kenna henni um að ástandið sé svona slæmt. Og í hinu orðinu tala þessir sömu menn eins og t.d. Davíð Sch. Thorsteinsson formaður ísl. iðnrekenda um nauðsyn þess að íslenskt iðnverkafólk taki höndum saman við iðnrekendur til að auka framleiðnina og gróða eigendanna.

Nei, í rauninni er þetta ekkert furðulegt ef betur er að gáð. Þessir menn eru uppkeyptir af auðvaldinu (ýmiskonar bitlingar og launuð embætti) og þjóna ekki lengur hagsmunum verkalýðsins. Tökum dæmi: Þeir leyfa sér að sitja á stanslausum fundum með atvinnurekendum til að ræða skerðingu á fengnum réttindum verkafólks, réttindum sem hafa áunnist í gegnum harða baráttu. Þeir koma fram fyrir alþjóð ásamt atvinnurekendum og það liggur við að þeir slefi niður í hálsmálið á hvor öðrum af hrifningu.

Þessum mönnum ber að víkja fyrir vinnandi verkafólki en þeir gera það ekki baráttulaust. Við þekkjum hvernig þeir fótum troða lýðræðið innan verkalýðsfélaganna er það þjónar hagsmunum þeirra, við þekkjum þá taktík sem þeir beita til að brjóta niður baráttufúst verkafólk með því að rakka það niður þegar það getur ekki borið hönd fyrir höfuð sér. Verkafólk verður að mæta á fundum og afhjúpa svik forystunnar, segja félögum af sínum af forystunni, frá svikum hennar því nóg er af dæmunum um þau.

Við verðum að heyja baráttuna alls staðar ekki bara innan verkalýðsfélaganna heldur alls staðar þar sem við komum saman, á vinnustöðunum og í þeim félögum sem við kunnum að starfa í.

Baráttan fyrir endurreisn verkalýðsfélaganna sem baráttutækja er erfið, vegna þess að það er ekki einungis við forystu verkalýðsfélaganna að etja heldur ekki síður forystu þess flokks sem kennir sig við sósíalisma og þjóðfrelsi, þ.e. a.s. Alþýðubandalagsins, sem er helsti talsmaður burgeisanna innan verkalýðshreyfingarinnar. Það gengur jafnvel svo langt að samtök sem kalla sig Einingarsamtök kommúnista (marxista-lenínista), hafa tekið undir söng verkalýðsforystunnar um að eina rétta krafan sé 100 þús. kr. og hafnað algerlega kröfunni um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku sem "ævintýrapólitík" og telur hana vera sundrandi, en ekki sameinandi, en þessi afstaða þeirra er dálítið hjákátlegt vegna þess að í þeim viðtölum sem átt hafa verið við verkafólk um kröfuna lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku, eru allir sammála um að það sé eina rétta krafan. Undir hvað eru þá svokölluð "Einingarsamtök" að taka? Jú þau eru að taka undir með forystunni, en ekki vinnandi verkafólki.

Í dag er Kommúnistaflokkur Íslands eini flokkurinn sem setur fram kröfuna Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku, hann er í raun eini flokkurinn sem tekur upp afstöðu verkalýðsins og berst fyrir kröfum hans.

Lifi Kommúnistaflokkur Íslands.
Lifi eining verkalýðsins á grundvelli stéttarvaráttunnar.

Framhald af baks.

## Kjarakröfur sjó.

Eins og málum er háttað nú eyðist oft afrakstur góðra aflabragða og jafnast út yfir tímabilið, þar sem það er svo langt.

Í stofnfjárssjóð fiskiskipa renna nú 10 % aflaverðmætis framhjá skiptum. Samkvæmt útreikningum LÍÚ mun hér vera um að ræða u.þ.b. 3,2 miljarða á þessu ári. Þannig eru sjómenn látnir greiða til fjárfestinga útgerðarmanna, stórar fúlgur. Slíkt sætta þeir sig að vonum ekki við. Útgerðarmenn geta haft sína Stofnfjarsjóði áfram og lagt til hliðar fé í þá ef þeim sýnist svo en það er ekki mál sjómanna.

Eins og fyrr segir hafa útgerðarmenn hafnað þessum kröfum sjómanna sem óraunhæfum. Aðferð þeirra mun nú enn sem fyrr sennilega verða sú að reyna sundra samstöðu sjómanna einkum ef til verkfalls kæmi. Til þess hafa þeir vissulega sínar leiðir. Hitt er ljóst að ef sjómenn standa nú fast á kröfum sínum eru verulegar líkur á að þeir nái þeim fram. Það er eftirtektarvert að útgerðarmenn hafa fyrir þessa kjaradeilu jarmað furðu lítið um það að þeir séu nú svo illa stæðir, útgerðin standi svo tæpt e.tv þurfi að leggja skipum ef laun sjómanna hækki o.s.frv. o.s.frv. þessa sömu rullu sem sjómenn og aðrir eru farnir að kannast vel við. Þeir eru þess vegna örugglega aflögufærir. Hins vegar eru þeir ekki áfjáðir í að sleppa auknum gróða nema þeir verði neyddir til þess. Það að sjómenn ganga nú í fyrsta sinn sameinaðir til samninga við útgerðina eykur líkur þeirra á sigri.

Framhald af baks.

## Hvernig skipt.

millibændum líka, betri lífskjör, m.a. með því að létta af þeim skuldabagganum. En þar sem það var ekki ætlunin að útlista hér stöðu bænda í sósíalismanum verður hér látið staðar numið. Sú útlistun verður að bíða betri tíma.

# Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku

Framhald af forsíðu

berst gegn vinnuþrældómnum verkamenn munu hjakka í sama gamla farinu ef þeir treysta á leiðsögn þeirra. Þessir verkalýðsforingjar etja okkur út í vonlaus allsherjarverkföll og aðrar baráttuaðferðir sem íslenska auðstéttin getur sætt sig við. Á félagsfundi sem haldinn var í Dagsbrún 2o. apríl voru þessir verkalýðsforingar á móti yfirvinnubanni. Samt sem áður urðu þeir að láta undan og yfirvinnubanni var lýst yfir 1. maí. Það var gert að tillögu Eðvarðs Sigurðssonar innan miðstjórnar ASÍ. En þetta yfirvinnubann var heldur síðbúið, það hefði mátt koma miklu fyrr því allan aprílmánuð var víðast hvar unnin gengdarlaus eftir og næturvinna til að auðherrrarnir væru undirbúnir undir vinnutafir. En samt sem áður hefur yfirvinnubannið borið góðan árangur þó að síðbúið sé, og sett til að fegra andlitið á ASÍ verkalýðsaðlinum á 1. maí.

100. þúsund króna krafan sem rædd er yfir samningarborðum þessa dagana er ekki krafa sem sameinar verkalýðsstéttina í hagsmunabaráttunni. Í Straumsvík eru tekjur verkamanna fyrir dagvinnu komnar yfir 100. þúsund krónur með vaktaálagi. Varla vilja verkamenn þar berjast fyrir óbreyttum kaupmætti? Hins vegar er krafan um lífvænleg laun fyrir 40. stunda vinnuviku, krafa sem sameinar verkafólk í hagsmuna baráttunni. Það eru þær tekjur sem meðal verkamanna fjölskylda þarf sér til framfæris og aflar sér með gengdarlausri eftir og næturvinnu í dag. Það eru hátt í 200. þúsund krónur samkvæmt útreikningum Hagstofunnar.

En atvinnurekendur eru ósvífnir og bjóða kauplækkun í stað kjarabóta. Þeir vita að verkalýðshreyfingin er illa á vegi stödd vegna þess að hún hefur verkalýðsforingja sem treysta ekki á baráttu verkalýðsfjöldans en halda aftur af baráttunni. Þeir vita að með þeim baráttuaðferðum sem beitt hefur verið af ASÍ undanfarin ár er verkalýðshreyfingin þeim ekki skeinuhætt. Verkalýðshreyfing sem byggir ekki á virkni og frumkvæði hinns almenna félaga er og verður máttlaus. Því verðum við að taka upp aðrar baráttuaðferðir í þeim kjaraátökum sem við eigum í nú. Við verðum að fara í skæruverkföll einstakra hópa verkamanna án fyrirvara. Aðrir verkamenn sem ekki eru í verkfalli geta stutt baráttuna með fjárframlögum og stuðningsfundum. Einnig er hægt að fara í hægagangsverkföll og skipuleggja veikindafrí. Þetta eru aðferðir sem duga, aðferðir sem byggjast á hinum almennu félaga í verkalýðshreyfingunni.



*Frá atkvæðagreiðslu verkamanna í Kaupmannahöfn 1. maí 1890 um 8 tíma vinnudag.*

Þessum aðferðum beitti íslenskur verkalýður með góðum árangri í skæruverkföllunum árið 1942. Ef við ætlum okkur að ná árangri í baráttunni fyrir því að dagvinna nægi okkur til framfærslu verðum við að leggja út í baráttuna, að öðrum kosti munu ávinningarnir verða engir

Framhald af bls. 2

## Viðtal við Daoud Kaloti

# Óvinurinn skal aldrei fá að sofa

vegna fylkir fjöldinn sér um PLO.

S: Þú hélst fund með starfsmanni íslenska utanríkisráðuneytisins. Hafði sá fundur einhverja þýðingu og hvernig skoðar PLO stuðning erlendra aðila?

K: Í 13. grein nýju stefnuskrárinnar segir orðrétt:"Þjóðarráð Palestínu fagnar afstöðu þeirra landa og lýðræðisafla, sem snúist hafa gegn síonismanum sem kynþáttakúgunarstefnu og fordæmt árásaraðgerðir hans." PLO vill skapa vináttu og tengsl við alla lýðræðisflokka, hvar sem vera skal í heiminum. Hér á Íslandi leitum við eftir slíkum tengslum við þá flokka sem berjast fyrir lýðræði, frelsi og sjálfstæði. Baráttu PLO er stefnt að sama markmiði og því viljum við eðlilega skapa slík tengsl. Í hinni opinberu tilkynningu frá fundi mínum með íslenska utanríkisráðuneytinu er sýndur skilningur fyrir baráttu palestínskrar alþýðu. Þetta er vissulega skref, en það mætti stíga lengra og skapa nánara samband, sem væri til hagsbóta fyrir alþýðu Íslands og Palestínu. Þeir stjórnmálaflokkar sem ekki hafa enn neitt samband við PLO, taka vonandi upp slíkt samband síðar. Við viljum hafa sambönd við alla, nema fasista eins og Vorster og Rabin, því við erum andstæðingar þeirra.

S: Að lokum Kaloti. Hérlendis hefur nýlega verið stofnsett Palestínunefnd. Gætir þú sagt nokkur orð um stuðningstarfið við palestínsku alþýðuna?

K: Já, stofnun PNÍ er okkur fagnaðarefni. Stefnuskrá PNÍ byggir á réttum forsendum og setur rétta hluti fram. En það er hvergi í heiminum unnið fullkomið stuðningsstarf. Slíku starfi fylgir alltaf barátta en einnig hún er nauðsynleg. PNÍ á að vera öllum opin og hún á ekki að vera háð neinum flokki eða samtökum. PLO þarf á eins víðtækum stuðningi að halda og framast er unnt, til að styðja baráttu okkar. Þetta er það sem PNÍ þarf að vinna að í starfi sínu.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
18. tbl. 6. árg. 17/5 1977.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm.: Sigurður Ingi Andrésson.



## Landbúnaðarmál

*áttunda grein*

# Hvernig skiptast bændur?

Það er orðið nokkuð langt síðan ætlunin var að birta þessa grein en þar sem það drost að semja hana þa drost birting hennar að [illegible]fsögðu líka. Með þessari grein lýkur þessum greinaflokki Stéttabaráttunnar um landbunaðarmál en ekki hættir þo Stéttabarattan að skrifa um landbunaðarmál þrátt fyrir það. [illegible]itir Stéttabarattan a alla lesendur sína og þo einkum bændur að skrifa í blaðið um landbúnað og kjör bænda, gagnrýna skrif okkar og bæta við þau. Það er blaðinu nauðsynlegt að bændur skrifi eitthvað sjálfir, ritnefnd blaðsins situr í Reykjavík og hefur ekki nógu gott færi a að fylgjast með kjörum bænda fyrir vikið, hversu vitur sem hun er.

Þess ber að geta að stefna KFÍm-l í landbunaðarmálum er engan veginn útrædd og geta þessi skrif því ekki skoðast öðru vísi en sem framlag höfunda greinaflokksins til þeirra umræðna, sem fram fara í flokknum, um bændur og stöðu þeirra, ennfremur verða þau að skoðast sem tilraun til að gera lesend um blaðsins einhverja grein fyrir íslenskum landbunaði og þeim sem að honum standa.

Þá er rétt að benda á viðbótarlesefni, þótt engan veginn verði sú upptalning tæmandi: Ýmsar greinar í Stéttabaráttunni svo sem í fyrravor og fyrrasumar, greinar í Verkalýðsblaðinu, t. d. í 10. tbl. þessa árs, Rauða Fananum 4. tbl. 1975 og 10. tbl. 1976, Nýja Tímanum, málgagni bændanefndar KFÍ og greinar í Röde Fane, fræðilegu málgagni AKPm-l í Noregi, nr. 4 1976, bæði stéttgreiningu á norskum bændum, svo og grein eftir Lenín.

Í undanförnum greinum hefur víða verið drepið litils háttar a að kjör bænda eru ekki þau sömu. Það hefur verið minnst a að kjörin seu mismunandi eftir bugreinum, busetu og ýmsu öðru. En stéttskiptingu meðal bænda hafa engin skil verið gerð. Er eftirfarandi grein ætlað að fylla það skarð að nokkru.

### Hvað ræður stéttarstöðu?

Fyrst er að hyggja að því hvað það er sem ræður stéttarstöðu folks almennt. Það er í stuttu máli "afstaðan" til framleiðslutækjanna. Með því er átt við það hvort folk a framleiðslutæki og hvort það hefur menn í vinnu.

Borgarar, auðherrar eða atvinnurekendur, hvaða nafni sem maður vill kalla eigendur atvinnutækja, hafa menn í vinnu hjá sér.

Ýmsir, svo sem flestir bændur og eigendur smáverslana, eiga atvinnutæki þar sem þeir vinna sjálfir asamt fjölskyldu sinni. Þessi hopur kallast smáborgarar a máli kommunista og er ekki lögð nein niðrandi merking í það orð, eins og oft er gert, heldur a það einungis að syna þa afstöðu þessa folks til framleiðslutækja að það eigi sín framleiðslutæki en hafi að jafnaði ekki annað folk í vinnu hja sér.

Þriðja meginstéttin er öreiga- eða verkalyðsstétt. Með því að kalla þetta folk öreiga er ekki átt við það að það eigi alls ekki neitt, heldur að það hvorki eigi né raði yfir framleiðslutækjum. Það a nuorðið oft bæði íbuð og bíl og er því kannski ekki öreigar í þeim skilningi sem flestir leggja í það orð. Á frumskeiði nutímaverkalyðsstéttar átti þetta folk hins vegar hvorki hus né bíl og varla föt utan a sig og kemur nafngiftin til af því. Á hitt ber líka að líta að orðið öreigi getur þýtt hvort tveggja: eignalaus maður, fatæklingur, eða: maður sem ekki a arðbærar eignir (Orðabók Menningarsjóðs Rvík 1963). "Öreiginn" eða verkamaðurinn ef nauðbeygður til að vinna hja eigenda atvinnutækis til að geta framfleytt sér.

En þetta var nu úturdur. Ætlunin var fjalla um þann hop folks sem einu nafni nefnast íslenskir bændur og kanna hvort þeir eru borgar smáborgarar, eða öreigar (launavinnumenn).

### Stétt-og hópagreining meðal íslenskra bænda.

Eftir þennan formála er það ljost að hugsanleg stétt-og lagskipting meðal bænda ræðst ekki af því hvort þeir bua með kýr, kindur eða minka eða hvort þeir eiga groðurhus. En stétt-og lagskipting getur birst í því.

Eiginleg stéttskipting meðal bænda er ekki mikil. Gamla vinnumennskufyrirkomulagið er nálega utdautt. Flestir bændur eru einyrkjar, vinna að bui sínu með fjölskyldu sinni og kaupa sjaldan vinnuafl nema þa til sérstakra verka svo sem við fjárruning og flutninga. Til eru bændur sem hafa svo stor bu að þeir þurfa aðkeypt vinnuafl allt árið. Höfundur þessarar greinar telur að það atriði, hvort bondinn kaupir vinnuafl allt árið eða aðeins hluta úr ári (t. d. að hafa ungling yfir sumartímann). raða því hvort telja beri bondann landbúnaðarkapitalista eða auðherra eða aðeins venjulegan bonda af smáborgaragráðu (munið að þetta orð er ekki notað í neikvæðri merkingu). Þetta er þo ókannað mál og þarf að kanna það í hverju tilviki. Í sumum bugreinum, t. d. minkarækt og svínarækt, er um verulega stéttaskiptingu að ræða. Í öðrum bugreinum, t. d. kúabúskap, hefur það færst í vöxt að reist seu svo stor bu að eigandinn anni því hvergi nærri sjálfur að hirða um bupeninginn

Leifar gamla vinnumennskufyrirkomulagsins eru auðvitað ekkert annað en stéttskipting líka. En hvort sem ræturnar eru gamlar eða nýjar eru til nokkrir íslenskir "bændur" sem hafa folk í vinnu hjá sér allan ársins hring.

Fyrst "landbúnaðarauðherrar" eru til hljota líka að vera til "landbúnaðaröreigar" eða öðru nafni landbunaðarverkamenn. þ. e. menn sem vinna í landbúnaði en eiga ekki bu sjálfir. Þess sjást merki að sú stétt muni stækka á næstunni. En það er hægt að koma í veg fyrir það með því að auka fyrirgreiðslu til félagsbuskapar eins og komið var inn á í 5. grein. Þess ber að geta, til að láta nu stjórnvöld njota sannmælis, að á síðasta ári voru settar reglur um hver skyldi vera hámarksstærð þeirra peningahusa sem stofnlánadeild landbunaðarins mætti lána ut á.

### Hópaskipting eða lagskipting meðal bænda

Bændum er hægt að skipta niður í aragrúa hopa eftir því hvaða hagsmuna þeir eiga brýnast að gæta. Bændur, aðrir en landbunaðarauðherrar og landbúnaðarverkamenn, hafa þo ýmissa sömu meginhagsmuna að gæta.

Mismunandi hagsmunir bænda eru tiltölulega augljósir þegar um er að ræða mismunandi búgreinar. Einnig er um olíka hagsmuni að ræða eftir búsetu a landinu eða búsetu í héruðum (hvort þeir búa nærri kaupstaðnum).

Storbændur eru þeir sem hafa menn í vinnu og eru háðir þessu vinnuafli allt árið. Þetta eru landbúnaðarauðherrarnir.

Millibændur eru bændur sem geta lifað af búskap sínum. Þeir brúka aðkeypt vinnuafl ekki nema hluta ur árinu og oft alls ekki, nema þá við sérstök störf, eins og áður segir. Þeir keppast við að velvæða bú sín til að standast samkeppnina. Þeir hafa ekkert a moti því að stækka bu sín svo að þeir komist í tölu landbúnaðarauðherranna (storbændanna) en á erfiðum tímum (krepputímum) geta þeir hæglega fallið niður í hop smábænda því að fjárfestingarskuldirnar eru oftast svo miklar að ekkert má út af bera.

Smábændurnir verða harðast úti í kreppum. Bú þeirra eru svo smá að þeir geta tæpast lifað af búskapnum einum. Sumir þeirra vinna óreglulega vinnu utan búsins þegar færi gefst, aðrir reglulega. Enn aðrir fara á vertíð a veturna eða vinna önnur árstíðabundin störf. Og búin eru svo lítil að þau standa ekki undir velvæðingu, sem er forsenda þess að hægt sé að stækka þau til að geta lifað af þeim eingöngu. Raunar er þessi hópur hálf-öreigar, þ. e. lifa bæði af eigin framleiðslutækjum og launavinnu hjá öðrum.

I fyrri greinum hefur nokkuð verið vikið að vinnu bænda utan bús og bent á að mjög oft sé afleiðingin sú að bændurnir bregði bui fyrir fullt og allt og verði launavinnuþrælar. Það er því ljóst að smábændurnir eru í raun og veru bandamenn verkalýðsins. Þeir búa við talsvert lík lífskjör og raunar er kaup þeirra lægra en verkamanna eins og fram kom í fyrstu greininni. En það sem skilur á milli og gerir bændur stundum dálítið íhaldssama er það að þeir skuli eiga atvinnutækin sín sjálfir. Það er búið að hamra stöðugt á því að taka eigi atvinnutækin af þeim í sósíalísku byltingunni. En auðvitað er það ekki það sem vakir fyrir kommúnistum, heldur á sósíalisminn möguleika á því að veita smábændum og raunar

Framhald á bls. 3

# Kjarakröfur sjómanna

Fyrsti samningafundur sjómanna og útgerðarmanna var haldinn 9. maí s. l. Þar lögðu sjómenn fram kröfur sínar. Lýstu útgerðarmenn því þegar yfir að þeir teldu kröfugerðina óraunhæfa. Hefur deilunni nú verið vísað til sáttasemjara.

Meginatriði kröfugerðar sjómanna eru þessi:

Hækkun skiptaprósentu þannig að hún verði hin sama og var fyrir sjóðakerfisbreytinguna og þá lækkun sem fólst í bráðabirgðalögum frá 6. sept. s. l. -

- Kauptryggingartímabilið styttist. Það verði einn mánuður í stað þess að nú eru aðeins þrjú kauptryggingartímabil yfir árið-

- Greiðslur í stofnfjársjóð fiskiskipa falli niður í áföngum á næstu þrem árum. -

Fyrstu kröfunni þ. e. um hækkun skiptaprósentunnar hafa útgerðarmenn svarað á þann veg að þeir sjái ekki ástæðu til þess að breyta skiptaprósentunni frá því sem nú er heldur ættu sjómenn að taka höndum saman við útgerðarmenn og knýja fram hærra fiskverð. Þannig reyna þeir að koma því að , að skiptaprósentan eigi að vera föst óbreytanleg stærð þ. e. arðránshlutfall þeirra skuli haldast. Í haust beittu útgerðarmenn ríkisvaldi sínu til að knýja fram lækkun prósentunnar þegar sjómenn þrjóskuðust við að samþykkja þau smánarkjör sem uppkeypt forysta þeirra hafði undirritað. Sú skiptaprósenta sem nú gildir var sett í andstöðu við meginþorra sjómanna. Þessvegna skal henni nú breytt. Til þess að ná því fram geta sjómenn ekki stuðst við einhliða lagasetningar heldur verða þeir að knýja það fram með samtakamætti sínum. Útgerðarmenn leika oft þann leik að fá sjómenn til að slá af kröfum sínum með því að benda á sameiginlega hagsmuni þeirra í því að fiskverð verði hækkað En vegna þeirrar staðreyndar að stór hluti útgerðarinnar þiggur undirborðsgreiðslur framhjá skiptum standa útgerðarmenn og fiskkaupendur sameinaðir í því að rýra kjör sjómannsins. Meðan svo er háttað þurfa útgerðarmenn ekki að vænta þess að sjómenn falli fyrir þessum blekkingum þeirra.

Krafan um styttingu kauptryggingartímabilsins er fyrst og fremst krafa um örari og tryggari greiðslur til sjómanna

Framhald á bls. 3



Frá fyrsta fundi Sjómanna og Útgerðamanna.

# Ljóð Maós á íslensku

Nú er nýhafinn undirbúningur að því að út verði gefin á íslensku öll ljóð Maós Tse-túngs. Ljóðin eru þýdd úr ensku og norðurlandamálum af Guðmundi Sæmundssyni, og ber hin íslenska útgáfa heitið " GANGAN MIKLA-LJÓÐ MAÓS TSE-TÚNGS". Auk ljóðanna verða í bókinni stutt æviágrip Maós, grein um þá kínversku bragarhætti, sem Maó notar, birtar þýðingar a nokkrum ljóðum kínverskra skálda um leiðtoga sinn o. fl. Bókin verður innbundin og skreytt miklum fjölda ljósmynda, teikninga og annarra kínverskra listaverka. Stærð bókarinnar verður um það bil 160-175 bls.

Áætlað er að bókin komi út í sumar, líklega fyrir ágústlok. Erfitt er að spá fyrir um verð hennar, en líklegt verð er um 2000-2500 kr., sem varla getur talist mikið fyrir svo vandaða bók.

Við bjóðum lesendum Stéttabaráttunnar að fá bókina á forlagsverði, strax og hún kemur út. Látið Rauðu Stjörnuna skrá nöfn, fjölda eintaka og símanúmer, og þá verður haft samband við ykkur strax og bókin kemur út.



GFRIST ÁSKRIFENDUR

## Stéttabaráttan vikublað